


IV. Winnipeg, Man. Nr. 7.

# Frumhlaup "Sameiningarinnar".

Oss hefir stórlega furðað á því, að enginn landi vor; hvorki hér vestra eða heima á Íslandi, skuli hafa tekið til máls og andæft greininni um fjárstyrkinn til Þorst. Erlingssonar, í maí-númeri "Sam." 1896. Vér höfum verið að bíða og bíða, því vér vildum ekki taka fram fyrir hendur þeirra, sem stóð það nær, en ekkert hefir séðst í þá átt. Oss furðar stórlega á því, að landar vorir heima skuli hafa látið það óátalið, að þeir þegjandi skuli láta hirta sig eins og óvita börn. Á Ísland gamla nú að fara að stjórnast frá Winnipeg? Flestir munu kveða nei við því; en hvað á maður að segja, þegar maður í annari álfu tekur fulltrúa og löggjafa þjóðar einnar og leggur þá eins á kné sér og hér er gjört. En þá málsatriðið! Sam. hefir á móti því, að Þorsteini Erlingssyni séu veitt skáldalaun. Af hverju? Af því að hann sé ekki kristinn og kvæði hans ekki kristin!! Það er skrítið, ef að maðurinn getur ekki verið skáld, þó að hann sé ekki kristinn. Ekki var Hómer kristinn og var hann og er talinn einn hinna mestu skálda; ekki var Hórats kristinn, ekki Óvid kristinn; blendinn var Byron í trúnni og blendinn var Goethe. Blendinn er Björnstjerne, Kjelland og Ibsen og dregur enginn af þeim skáldanafnið. En nú eru verðlaun veitt fyrir það, sem verðlaun á skilið. Það er ekkert bundið við það hvort maðurinn er kristinn eða ekki. Alþingi hefir einmitt aldrei ætlað að fara út í þá sálma. Þingmenn veittu Þ. E. laun fyrir það, að hann er skáld, en fóru ekkert í það hvort hann orti lofgjörð Maríu mey eða Agli Skallagrímssyni. Þeir heiðruðu listina og köstuðu kreddunum. Eða er ekki trúarfrelsi

komið á á Íslandi? Og hvernig átti þingið þá að sýna réttlæti, ef að það tók tillit til trúar eða vantrúar. Hefði Þingið tekið tillit til þess, að Þ. E. var blendinn í trúnni og fyrir það neitað honum um skáldalaunin, þá hefði það beinlínis sýnt honum ranglæti og þar sem "Sam." ávítar þingmenn fyrir það, þá er hún að æsa menn upp til að fremja ranglæti. Það er jesúitisk kenning, sem hún flytur, að þingmenn hefðu átt að neita Þ. E. um styrkinn af því að ljóð hans spilla fyrir trúnni. Þetta er að vernda kyrkjuna, vernda sjálfan sig með því að gera öðrum rangt. Og hyggjum vér að ritstj. "Sam." hafi ekki athugað þetta, er hann skrifaði grein sína, því að hann er alt of réttsýnn maður til þess, að hafa og halda fram þessum hugsunarhætti.

En út yfir tekur þó, þegar ritstj. "Sam." fer að taka ofan í við Jón Jónsson fulltrúa Eyfirðinga. Hann hafði sagt í ræðu sinni um mál þetta á þingi, að listin væri eins rétthá og kirkjan, að listin væri eldri en kyrkjan. Þetta þolir ritstjóri "Sam." ekki og segir, að þetta sé "vöflur og vífilengjur." Svo fer hann að neita því að listin sé eldri en kyrkjan, og fer að reyna, að snúa sig út úr því með svo vandræðalegum útúrsnúningum að yfir tekur.

En hvernig í ósköpunum getur ritstj. "Sam." farið að segja, að kyrkjan sé jafngömul og listin. Kemur honum virkilega til hugar að bera annað eins á borð fyrir menn, sem séð hafa og lesið sögu mannkynsins. Það má segja þetta og annað eins lúterskum vesalingum, sem ekki þekkja meira til sögu, en nýborinn kálfur til stjörnufræði. Það má segja þetta mönnum, sem byrgja fyrir augu skynseminnar og vitsins og trúa sem heilögum sannindum hverri vitleysu sem presturinn segir. En að bjóða þetta fulltrúum gamla Íslands á alþingi, að bjóða þetta öllum þorra Íslendinga, það er heldur frek inntaka og vér efumst um að mönnum verði gott af henni.

Þegar talað er hér um kyrkju, ætla ég að ganga út frá því, að átt sé við hina svo kölluðu kristnu kyrkju. En nú læröu lúterskir menn það, að kyrkjan þessi hafi verið stofnsett í Jerúsalem fyrir rúmum 1860 árum (eftir dauða Krists). En var þá engin list til áður? Voru ekki skáldin Rómverja uppi áður? skáldin Grikkja? skáld hjá Gyðingum og yfir höfuð öllum þjóðum öðrum? Voru ekki listir hjá Egyftum?

En nú vill hann krnnske fara lengra og talja Gyðinga til kristninnar þó að það sé ekki rétt. En voru þá engar listir til fyrir daga Gyðinga? Þó að vér förum nú upp til forfeðranna, þeirra Abrahams, Ísaks og Jakobs, voru engar listir til fyrir daga þeirra bæði skáldskapur og aðrar listir?

En svo fer hann að reyna að snúa sig út úr þessu, eins og þegar Grímur Ægir var að reyna að snúa sig úr fangbrögðum Hrólfs hins sterka. "Sé það á annað borð viðurkennt að guðlegur sannleikur sé — í ákveðnum trúaratriðum, er kyrkjan kennir, þá er sá sannleikur eilífur og þess vegna að minnsta kosti eins gamall og íþróttin". En hér kemur ritstj. "Sam." með það sem ekki er hægt að viðurkenna, þar sem komið er trúarbragða frelsi. Í trúfrelsis landi getur löggjafarvald ekki fremur viðurkent sannleika einnar trúar en annarar. Þar á að gjöra öllum trúarflokkum jafnt undir höfði. Sannleikur einnar trúarinnar er eins góður og gildur í augum löggjafarvaldsins og annarar.

En svo er annað, hvaða sannleikur er þetta sem ritstj. "Sam." er að tala um að kyrkjan flytji og sé eilífur? Sjáum nú: fyrir hvítasunnuuaginn eftir dauða Krists var engin kristin kyrkja til, fyrir daga Abrabams getnm vér sagt, að enginn Gyðingur hafi verið til, (vér ætlum að kalla þá frændurna Gyðinga, þó að nafn það byrji eiginlega fyrst með Júda syni Jakobs). Hvaða sannleika er verið um að tala? Holdtekju Krists eða það, að guð varð maður? En sú hugmynd var til þúsund árum áður en Kristur dó, og er heiðin, hún var hér og hvar um Austurlönd. Eða var það friðþægingin, að Kristur afplánaði syndir manna með blóði sínu? En sú hugmynd er líka heiðin og er hin kristna kyrkja leifar af blótfórnum og mannblótum heiðingja. Þeim fannst að þeir endilega þyrftu að blóta guði; guð var svo grimmur og blóðþyrstur, að þeir gátu ekki blíðkað hann með neinu eins og mannablóði og fórnuðu þeir jafnvel börnum sínum þegar mikið lá við.

Eða er þessi sannleikur hugmyndin um þrenninguna? Hún er ekki eldri en frá 325 eftir Krist í hæsta lagi, og var listin komin vel á veg þá.

Eða er það hugmyndin um helvíti? Hún vitum vér vel að er parsisk. Gyðingar lærðu fyrst hugmynd þá af heiðnum þjóðum við Efratsfljót, í herleiðingunni, frá 580—536 árum fyrir Krist.

Eða er það hugmyndin um meydóm Maríu, er hún átti að vera jómfrú þótt hún væri búin barn að ala? Sú kenning er ekki eldri en eitthvað frá 380 eftir Krist.

Eða er það hugmyndin um syndafallið? Sú hugmynd er þó sannarlega heiðin en ekki kristin.

En þegar þessi eilífi kristni sannleiki getur ekki verið neitt af þessu, þá vitum vér í sannleika ekki hvað það kann að geta verið.

Þá segir ritstj, "Sam." að það sé "þvættingur," að íþróttin hafi fengið miklu víðtækari viðurkenning í heiminum heldur en kyrkj-

an. En þetta er svo hraparlegt missýni, að menn geta ekki nefnt þetta öðru nafni en ósannindi.

Listin er meiri og minni hjá öllum þjóðum, hverju nafni sem nefnast. hvort heldur þær eru kristnar eða heiðnar. En hvað af þessum kristnu 1500 miljónum heimsins er nú kristinn? Þær viðurkenna allar listina, því getur enginn lifandi maður neitað, þó að þær beri misjafnt skyn á hana. En viðurkenna þær nú allar kristnina? Nei, langt frá! Ekki helmingur þeirra, já lítið meira en $\frac{1}{3}$ hluti þeirra að nafninu til, og af þessum $\frac{1}{3}$ hlnta, sem í eru yfir 200 trúflokkar, segir einn flokkurinn öðrum, að hann fari í eilífan kvalastað fyrir skoðanir sínar. Svona er nú innbyrðis viðurkenningin! En hver maður getur nú verið svo rangsýnn að segja, að það sé "þvættingur" að íþróttin hafi fengið miklu víðtækari viðurkenning í heiminum, heldur en kyrkjan?

Svo segir ritstj. "Sam.", að sönn íþrótt komi aldrei i bága við þann eilífa sanuleika, sem kyrkjan kennir eða heldur á lofti í trúarjátning sinni. Þetta er skrítið, því að hér í grein þessari er ritstj. einmitt að berjast á móti íþrótt fyrir það, að hún kemur í bága við kyrkjuna og kenning hennar.

Þá kallar hann kvæði Þ. E. "ljót," og á hann þar sérstaklega við kyæðin "Örlög guðanna" og "Örbyrgð og auður." En ekki færir hann ástæður syrir því, og hefði það þó verið viðkunnanlegra. Þykja honum þau ljót af því, að þau fletta upp blæjunni sem hylur beinagrind kyrkjunnar? En Því fer nú betur, að fegurðartilfinning manna er ekki svo sljófguð og spilt, að þeir kalli kvæði þessi ljót. Ég hygg að þeir verði miklu fleiri, sem telja þau listaverk. Eða hvað finnur hann ljótt í þeim, hvað vill hann hrekja í þeim?

En svo er klykt út með því, að greinarhöfundurinn fer að þvo hendur sínar sem Pílatus, og segist taka það fram, að hann "unni Þorsteini Erlingssyni mjög vel fjárstyrks þess, er samþykt var á alþyngi að honum skyldi veittur."

Hann er búinn að gera alt sitt til, að spilla fyrir því, að Þ. E. verði veittur þessi styrkur framvegis, hann er búinn að leggja þingmenn Íslands á kné sér og hirta þá fyrir þann glæp, sem þeir hafi framið á móti kyrkjunni, og þó segist hann "unna" honum þess vel að fá styrkinn. Vér skiljum ekki þenna hugsanagang, og þeir munu fleiri vera, sem ekki skilja hann; nema ef það á að vera einhvers konar handaþvottur, af því að maðurinn hafi fundið til þess, að hann í rauninni hefði aldrei átt að koma fram með þessa grein sína.

# KALDEUMENN HINIR FORNU.

Framhald

## ÞJÓÐSAGNIR.

Þetta framanskráða eru nú hin nafnfrægu Kaldeisku sögu- eða trúarljóð. Þegar menn fyrst rákust á þau, var sem allur hinn mentaði heimur ætlaði uppvægur að verða. Menn höfðu áður fyrri ætlað að ritningin hefði inni að halda hinar elstu frásögur, en hér komu aðrar sögur svo miklu eldri en biblían, sem hún er eldri en tíminn sem vér lifum á. Þarna sjáum vér sögurnar um syndaflóðið, um regnbogann, um syndafallið, um lífsins tré, og jafnvel um sköpun heimsins. Vér sjáum þá, að Gyðingar hafa ekki átt þær sögur sjálfir, heldur lánað þær hjá heiðnum þjóðum. Og þetta eru þó einmitt sögurnar, sem þessi hin helga bók kristinna manna er bygð og grundvölluð á.

En nú ætlum vér að snúa oss að syndaflóðssögunni, eða réttara Izdubar-sögunum, sem lesendur Dagsbrúnar hafa fengið ágrip af, og skýra þær betur.

Það er þá fyrst, að fyrir oss verður spurningin, hvort Izdubar hafi maður verið, einhver kappi eða konungur, sem sögur hafi myndast af, og einlægt hafi sögurnar orðið tröllslegri og stórkostlegri með hverri kynslóðinni sem leið. Til þess að komast að þeirri ályktun eru engar líkur. Sögurnar eru miklu eldri en svo, og þær hljóða um þann sem meiri er en nokkur kappi eða hálfguð. Þetta er alt saman sagan um göngu sólarinnar, ekki hina daglegu göngu hennar, heldur hinn árlega gang. Eftir sólstöður fer hún að rísa á lofti með vaxandi ljóma, einlægt meiri og meiri, einlægt rís hún hærra og hærra á lofti, alt fram á mitt sumar, þegar hún er komin í ljónsmerki. Svo smá lækkar hún á lofti, ljómi hennar fer smá þverrandi, hún eins og bliknar og sýkist undir haustið. Loks liggur leið hennar á vötnum dauðans, hún verður máttvana, geislar hennar kraftlitlir, eða eins og á Norðurlöndum sumstaðar, að hún hverfur og deyr og liggur í gröfinni um sólstöður á hausti, dagana þrjá sem Kristur steig niður í heimana neðri. En þar getur hún ekki verið, þessi guð, — því að fornmenn hugsuðu sér sólina sem guð, — þessi guð má ekki og getur ekki dáið. Hún rís því upp aftur með nýjum ljóma og vekur með sér til lífs aftur alla náttúruna, sem legið hefir í dauða eða í dvala um vetrartímann.

Vér skulum nú athuga þetta betur. Töflurnar sem söguljóð þessi hin Kaldeisku eru á rituð, eru tólf. Sólin á göngu sinni um himinhvolfið gengur í gegnum tólf merki, hinn svokallaða dýra-

hring. Hefir mátt sjá nöfn þeirra á öllum almanökum ogeru þau þessi á latínu: aries, taurus, gemini, cancer, leo, virgo,libraque, arcitenens, scorpio, caper, amphora, pisces. Vér setjum hér latnesku nöfnin af því, að þau geta menn séð á hverju ensku almanaki. En íslenzku nöfnin eru þessi: hrútur, naut, tvíburar, krabbi, ljón, meyja, vog, sporðdreki, bogmaður, hafur, vatnsberi og fiskar. Ganga sólar um hvort þessara merkja táknar einn mánuð ársins, mánuðirnir eru tólf eins og merkin eru.

Og nú skulum vér bera þetta saman við Izdubar-töflurnar. Því er ver og miður að hina fyrstu töflu vantar enn, svo að vér getum ekki séð hvort frásagan á henni hafi átt að hljóða upp á hrútsmerki. En næsti mánuður var hjá Kaldeum kallaður mánuður hins vinveitta nauts, og svarar það til þess í sögunni, er Izdubar sendir eftir Eabani, er var hálfur naut en hálfur maður. Þá er hinn þriðji mánuður ársins, er sólin gengur í gegn um tvíburamerki. Nefndu Kaldear mánuð þann "tvíburana." Þar á það við í Izdubaısögunum. er sagt er frá fóstbræðralagi þeirra kappanna Izdubars og Eabani. Hin fjórða taflan er svo gölluð og svo mikið vantar í hana, að ekki er gott að gera neitt greinilegt úr því; en óefað hefir hún átt að hljóða upp á göngu sólar í gegnum krabbamerkið. Þá er hinn fimti mánuður. Í sögunni er sigur þeirra fóstbræðranna yfir harðstjóranum Khumbaba einkendur með myndinni, er sýnir sigurinn yfir ljóninu og nautinu, og eı þó oftar á myndunum að eins sýnd mynd af því, er Izdubar sigrar ljónið. Er hann látinn halda á því undir hendi sinni. Þá gengur sól í gegnum ljónsmerki. Kölluðu Kaldear mánuð þann "eldmánuð," og átti það að tákna hinn heitasta tíma ársins (Júlí og Ágúst), en ár þeirra byrjaði í miðjum Marzmánuði. Þess ber og að gæta, að í skáldskap austurlanda-þjóða á mynd ljónsins að tákna hitann og eldinn. Máske dregið af því, að ljón höfðust mjög við á brennandi sandauðnum. Þá kemur mánuður sá, er sól gengur í gegnum meyjarmerki, er Kaldear kölluðu "mánuð boðskapar gyðjunnar Ishtar, og merki það, er tákna skyldi mánuð þenna, er meyja með boga í hendi (Ishtar með boga guðsins Anu). Kemur það saman við meyjarmerkið á dýrahringnum. Þar á það við í sögunum, er gyðjan Ishtar sendir til Izdubar og býður sig honum fyrir konu. Þá kemur mánuður sá, er Kaldeumenn einkendu með merkinu: sporðdreki, og á það þar við í sögunni, er Izdubar hittir verði sólarinnar, hálfa menn en hálfa sporðdreka. Finnur hann þá er hann leggur upp að leita hinna dánu frænda sinna. Hinn níunda mánuð kölluðu Kaldear "hinn skýjafulla," og á það vel við helming Nóvember og Desember mánaða. Á það við

hann í sögunni, er Izdubar leggur út á vötn dauðans. Hinn tíunda mánuð kölluðu þeir "mánuðinn er sólin gengur í hellir sinn," er það Desember og Janúar, helmingur af hvorum. Þá er sói lægst á lofti; þá eru vetrarsólstöður og stystur dagur. Á hinni tíundu töflu er sagt frá því. er Izdubar loks nær takmarki sínu, kemst alla leið á land hinna dánu. Þar er sólin horfin og þangað hafði hinn frægi forfaðir hans verið fluttur af guðunum. Þá kemur hinn 11. mánuður og var hann einkendur með vatnsberamerki. Kölluðu Kaldear hann "mánuð hins eyðileggjandi regns." Féll mánuður sá á Janúar hálfan og Febrúar hálfan. En á þeim tíma voru sífeldar rigningar í Euphratsdalnum eður landi Kaldeumanna. Á hinum tólfta mánuði fylgja fiskar guðsins Ea sólunni og er það merki mánaðarins, fiskmerki. Er það hinn seinasti mánuður hinnar vondu tíðar. Þá heldur Izdubar heim aftur og lýkur ferð sinni, eins og sólin göngu sinni. Kemur hann heill heilsu aftur heim í ríki sitt og rís upp í nýjum mætti, enda er nú sólin farin að rísa aftur úr vetrardvalanum, hún er farin að hressast eins og Izdubar.

Er þá gjörð grein fyrir öllum mánuðunum nema hinum sjöunda, en hann var helgaður Dumuzi, bónda ástagyðjunnar Ishtar, var það hálfur Júuí og hálfur Júlí og merki hans var krabbi.

Hinn fyrsta mánuð nefndu Kaldear "altari Bels," og hefir víst átt að tákna sættina við guðinn eftir flóðið og var merki mánaðarins hrútur, er hefir átt að tákna það, að þá var hrúti fórnað á altari guðsins. Hver mánuður átti að vera undir vernd einhvers guðsins; þannig stóð hinn fyrsti mánuður undir vernd þeirra Anu og Bel. Hínn næsta verndaði guðinn Ea; hinn sjötta Ishtar, og hinn ellefta verndaði storma og þrumuguðinn Raman, o. s. frv.

Þeir sem vilja geta nú borið saman frásögur þessar um syndaflóðið í biblíunni og flóðsögur þessar frá Kaldeum, og mega þeir vera meira en lítið rangsýnir, jafnvel skyni skroppnir, ef að þeir vilja ekki kannast við að þetta hlýtur að vera sama sagan.

Hér ber sögunum svo vel saman, að þær stundum eru alveg orðréttar, og í seinni sögunni — biblíusögunni — er öllum aðalatriðunum haldið. Það er guð sjálfur sem kemur til beggja, Izdubar og Nóa, og segir þeim, að guð eða guðirnir hafi afráðið að eyðileggja alt líf. Þeir Nói og Izdubar eiga að smíða skip, til að bjargast í. Það er tiltekið hversu langt, hátt og breitt það skuli vera, sagt fyrir um bikunina meira að segja, um skepnur þær sem þeir skuli flytja út í það. Ástæðan til þess að guðirnir steyftu þessari eyðileggirg yfir menn og skepnur er á báðum stöðum tekin fram: það er spilling mannanna. Auk skepnanna, sem þeir eiga að flytja í skip þetta,

er talið upp með því nær sömu orðum alt skyldfólk þeirra, þjónar og þjónustukonur.

Þegar alt var komið inn í skipið, var því lokað og sýnir það,að hvorug þjóðin, síst Gyðingar, hafa sjómenn verið.

Skipið strandar á fjalli einu, á Ararat hjá Nóa, en Nizir hjá Izdubar.

Hjó báðum kemur vatnið af himni ofan niður um hlerana og úr undirdjúpunum. Og þegar skipið loks strandar, þá senda báðir út fugla þrjá, hvern á eftir öðrum, Izdubar dúfu, svölu og hrafn, en Nói hrafn og þrisvar sinnum dúfu. Svo þegar þeir koma út úr skipunum, þá byggja báðir altari og færa fórnir guðunum. Svo gera guðirnir sáttmála við mennina upp á það, að þeir skuli aldrei framar gera þetta,—það er eins og guðirnir hafi skammast sín fyrir það. Báðir setja upp boga, og það merkilega er, að það er sami boginn. Í Nóa-sögunni er það bogi guðs, regnboginn, er hann setur upp á skýin, en í Izdubar-sögunni er það bogi Anu, sem ástagyðjan Ishtar spennir upp í hæðunum. Hvorutveggja er útskýring fáfróðra manna á því, hvernig regnboginn hafi til orðið.

Sjáið þér nú ekki vinir, hvað hún er sagan um syndaflóðið í biblíunni? Hún er brot eitt, að eins lítið brot, úr sólarsögum Kaldea.

Gyðingar eru miklu yngri þjóð en Kaldear, þeir bjuggu innan um Kaldea áður en þeir fluttu til Kanaanslands, þeir lærðu trúbrögð þeirra, svo týndu þeir miklu af þeim niður,. en margt festist þó í huga þeirra og kenningum. Af þessum sólarsögum týndu þeir mestu en þessa flóðsögu mundu þeir. Hún er lýsing eða skýring Kaldea á regntíma ársins, og ekkert annað. Sagan er miklu fullkomnari, miklu skáldlegri hjá Kaldeum en hjá Gyðingum. Enda voru Kaldear miklu voldugri og ríkari þjóð og miklu mentaðri, en Gyðingar.

Það var ekki furða þó að fornmenn hugsuðu mikið um sólina. Þeir horfðu á hana dagsdaglega, og hún var hinn máttugi kraftur er vakti líf alt á jörðunni. Þeir skildu ekkert í hvernig á því stóð. Þeir hlutu að hugsa sér hana sem máttuga veru eða máttugan guð. Þegar þeir litu upp til himins sáu þeir einlægt þennan skínandi guð, hann var einlægt á ferðinni dag eftir dag. Hann hlaut að vera að leita að einhverju. Og hin eðlilegasta hugsun, hin eðlilegasta skýring, sem þeir gátu hugsað sér, var sú, að guðinn væri að leita að unnustu sinni, kvöldgyðjunni, með henni gekk hann á beð á kvöldin. En þá átti hann í bardaga við óvini sína, guði myrkranna.

En fyrir hinum árlega gangi sólar þurftu þeir að gera sér aðra grein, og hún kemur fram hjá Kaldeum í Izdubar-sögunum, og leifar af henni er Nóasagan.

Þessar sögur um sólarguðinn eru ákaflega margbreyttar, en allstaðar voru sögur þessar sagðar í öllum löndum og oft með litlum breytingum. Einhver af hinum fegurstu og elstu þeirra sýnir sólarguðinn ungan, guðdómlegan, skínandi fríðan, og átti hann fyrir heitmey yndislega og máttuga gyðju. En fyrir tíma fram er honum bani ráðinn og stígur hann þá niður í ríki skugganna. En það á að tákna vetrartímann, hið sama og vötn dauðans eiga að tákna í Izdubar-sögunum. En dauði sólarguðsins á að tákna tíma þann, er geislar sólarinnar missa afl sitt, og eins og sigrast fyrir mátt kuldans og myrkursins. Gyðjan sem elskar sólarguðinn, er sjálf náttúran. Hún syrgir hann sáran og grætur sí og æ yfir honum látnum. En loks verka harmatölur hennar og grátur það, að hann (sólguðinn) vaknar aftur úr óviti þessu, er líktist dauða. Unnusta guðsins (náttúran) er ástúðleg, örlát og frjósöm, en í ekkjustandi sínu er hún föl og tekin og máttlítil. Frá sólarguðnum dregur hún líf sitt og fjör og næring. En meðan hún er ekkja og máttvana liggur sólarguðinn bundinn fjötrum óvinar síns, vetrarins eða dauðans.

Þegar guðinn rís upp aftur að vorinu og finnur ástmey sína, þá verður brúðkaupsveisla mikil, og er það tími hátíða og helgihalda hjá öllum þjóðum.

---

## ATHUGASEMDIR

VIÐ FYRIRLESTUR SÉRA N. STEINGRÍMS ÞORLAKSSONAR "UM GUÐDÓM DROTTINS VORS JESÚ KRISTS," Í ALDAMÓTUM 1891.

EFTIR JÓNAS KORTSON, MOUNTAIN, N. D.

Niðurlag.

Fl.: "Eins og hinn lifandi faðir sendi mig og ég lifi fyrir föðurinn, eins mun sá lifa fyrir mig sem mig etur." (Jóh. 6, 57).

Sv.: Það hefir þótt hinn rammasti villudómur að éta menn. En þó veigrar Jóhannes sér ekki við að bera það á Jesú, sem Jóhannes þó mest gumar af, hvað Jesús hafi elskað sig. Það má segja: "sjaldan er gott oflaunað nema illa sé." Þegar söguritarinn er búinn að láta Jesú í tíu greinum stagast á, að "éta sitt hold og drekka sitt blóð," þá segir hann: "Margir af lærisveinum hans sögðu þá: hörð er þessi ræða, hver getur hlýtt á hana." Svo lætur söguritarinn Jesú éta alt ofan í sig í 63. v.: "Andinn er það sem lífgar, holdið gagnar til einskis; þau orð sem ég tala til yðar eru andi og líf,"

Þessi Jóhannes (í 3. kap.) lætur Jesú kenna Nikódemusi í laumi á næturtíma. En þá er æðsti presturinn spurði Jesú að hans kenningu þá segir hann: "Jesús svaraði honum: ég hefi talað opinberlega fyrir heiminum; ég hefi ætíð kent í samkundunum og í musterinu, þar sem allir Gyðingar saman koma, og ekkert hefi ég talað í leyni, því spyr þú mig?" Hver getur nú trúað sögum annars eins refs og þessi ritari er, að láta Jesú ganga út í dauðann með ósannindi á vörunum? Það hefir verið tilfinningarlaus lygari, hvort sem hann hefir verið lærisveinn Jesú eða ekki.

Fl.: "Ég og faðirinn við erum eitt. Þó hér sé eiginlega talað um viljaeining og ekki verueining, þá er það sem gefið, að hin fullkomna viljaeining sem hann talar um, er ómöguleg, nema fyrir henni liggi verueining."

Sv.: Því hefir guð getað átt barnið Jesú með Maríu konu Jósefs, að til grundvallar hefir legið verueining fyrir þeim samförum. En því hratt þá hinn sérstaklega innblásni Lúther henni af guðastalli sem fölskum guði? Því ef að guðs sonurinn er guð, þá hlýtur guðs móðirin að vera það líka.

Fl.: "Hann segir við Gyðinga: ef þér þektuð mig þá þektuð þér og minn föður."

Sv.: Já, ef þeir hefðu þekt hugmyndir Jesú um guð, þá hefðu þeir þekt Jesú ímyndaða guð.

Fl.: "Sá sem sér mig, hann sér þann sem mig sendi."

Sv.: Þetta er bull. Andi og maður geta ekki verið eins.

Fl.: "Hann biður fyrir trúuðum lærisveinum sínum þannig: að allir séu eitt, eins og þú faðirinn ert í mér og ég í þér, svo að þeir séu eitt í okkur, svo að heimurinn trúi að þú hafir sent mig."

Sv.: Hvað þurfti Jesús að biðja fyrir trúuðum? Þar eð guðfræðin kennir að þeir geti rekið fjöllin á haf út (Matt. 21, 21); mundu þeir ekki geta látið heiminum sýnast hvað þeir vildu?

Fl.: "Hefir nokkur maður með ráði heyrst segja um sig og guð: faðirinn er mér meiri (Jóh. 14, 28)? Hefir nokkur maður nema vitfirringur borið sig saman við guð og sagt: guð er meiri en ég?"

Sv.: Var þá meira fyrir vitfirringsprestinn séra Níels að velta því við og segja: "ég er meiri en guð," en að segja, að Jesús með vessinu setji sig jafnhliða guði? Ef menn hafa nokkra tilfinuingu fyrir sannleika,, geta þeir lesið vessið og af því séð, hvort Jesús með því jafni sér við guð.

Fl.: "Og svo hróp Tómasar: drottinn minn og guð minn. Það hefði verið afguðadýrkun af Tomasi að ávarpa Jesú Krist þann-

ig, það er greinilegt, ef hann hefði bara verið maður, og hvað hefði ekki Jesús gjört, ef hann þá hefði þagað yfir þessu? Auðsjáanlega er hann ánægður með það, að hinn vantrúaðasti lærisveinn hans komst loksins til trúarinnar. Og auðsjáanlega vill hann, að allir komist til þessarar trúar: játi sig sem drottinn og guð og tilbiðji sig vegna þess, að hann er guð blessaður um eilífð".

Sv. Hvar er sönnun fyrir því, að Tómas hafi átt við Jesú en ekki guð, sem hann þó sendi hrópið til? Til dæmis að það skyldu vera nokkrir menn á ferð og koma að manni rifnum af villudýri, dauðum, en séra Níels, sem einn í hópnum, skyldi í angistar meðaumkvun hrópa: "Ó, drottinn minn, Jesús", en allur mannhópurinn segði: "Séra Níels kallar þá dauða manninn drottinn sinn Jesúm". Skyldi séra Níels falla það vel? Ég er hræddur um ekki. En kyrkjan var og er skyldug til að sýna þá staði, þar sem lærisveinarnir kalla Jesú guð. Geti hún það ekki án vafla og útúrsnúninga, er hún grófasti lygarinn í heimi.

---

Nú eru tilvitnanir fyrirlestursins í Nýjatestamentið á enda, og ég sloppinn úr því fúla dýki. En eftir er að sýna hvað biblían kennir um guð og Jesú. Þá er maður fer gegnum gamlatestamentið, verða fyrir manni 26 staðir, þar sem ítrekað er að guð sé einn, fyrir utan að það alt er eins guðs trúbók. Og eins í nýjatestamentinu: "Far frá mér satan því skrifað er, drottinn guð þinn átt þú að tilbiðja og honum einum að þjóna." — Það er merkilegt að flestir trúarhöfundar hafa legið úti á eyðistöðum áður en þeir boðuðu trú sína! Móses lá í 50 daga á Sinai meðan guð var að rita lögmálið. En á 6 dögum skapaði guð tilveruna. Spámennirnir voru útilegumenn. Jóhannes skírari lág úti og lifði á engisprettum.. Jesús lág fastandi úti meðal villidýra og djöfla í 40 daga. Muhamed lág úti til að fá vitranir. Jósep Smith lág úti til að fá mormónsbók til fullkomnunar biblíunni; mun hann vera sá einasti er úti hefir legið fyrir "náðarboðskapinn."

Hjá Matth. 27. segir: "Hrópaði Jesús á krossinum: guð minn guð minn, hví hefir þú yfirgefið mig." Vill nú kyrkjan segja að guði finnist að hann hafi yfirgefið sjálfan sig? En kyrkjan segir þá: gáið að því að hann var maður líka. Nú jæja, þá hefir manndómurinn einn liðið og dáið til frelsunar heiminum, og guðdómurinn er þá einungis sem stáss. Hjá Mark. 10, er hann segir við hinn ríka: "hví kallar þú mig góðann? enginn er góður nema guð einn." Og í 12. v.: "Þá kom til hans einn af þeim skriftlærðu, er heyrt hafði á samtal þeirra, og hversu vel að Jesús svaraði þeim; hann spurði á

þessa leið: hvert er hið allra æðsta boð? Jesús mælti: það allra æðsta boð er þetta: heyr þú Ísrael, drottinn vor guð er sá einasti guð. Þar fyrir átt þú að elska drottinn guð þinn af öllu þínu hjarta og öllum þínum mætti; þetta er hið æðsta boð. Þá sagði hinn skriftlærði: Ágætlega svaraðir þú, og satt er það, að ekki er guð nema einn og enginn nema hann. Þegar Jesú heyrði þetta skynsamlega svar hans, sagði hann við hann: Þú ert ekki fjærri guðsríki. — Hjá Lúk. 48.: "Jesús svaraði honum og sagði: það er og skrifað, drottinn guð þinn skaltu tilbiðja og honum einum þjóna." — Rómv. 27: "Einum alvitrum guði sé, fyrir Jesúm Krist, dýrð um aldir alda." — Kor. 3: "Vitið þér ekki að þér eruð guðs musteri, og að guðs andi býr í yður? Hver sem skemmir guðs musteri, þeim mun guð hegna, því guðs musteri er heilagt og þetta musteri eruð þér."

Þrenningarkyrkja, er þér ekki mál að athuga hvað er sannleikur?

Hjá Tim, 2. 5: "Því einn er guð og einn er meðalgangarinn milli guðs og manna, maðurinn Jesús Kristur." Þetta vogaði Páll postuli að kenna Tímóteusi þá er Jesús var vegsamlegur orðinn eftir ritningunum.

Enginn þessara höfunda virðist hafa haft minstu hugmynd um, að Jesús væri guð. Þeir hefðu víst ekki dregið af honum guðstitilinn- ef þeir hefðu haft nokkra hugmynd um guðdóm hans; ella hefðu þeir verið hinir verstu svikarar og sannleiksfalsarar. En það er það sem mér sýnist þrenningarkyrkjan vera, og því hverjum þeim betur farið sem flýr hana.

---

## UM KRAFTAVERK.

---

Áður fyrri, þegar menn vildu fá menn til þess að trúa einhverju, þá reyndu menn það ekki með því að sýna hvernig það væri mögulegt, heldur komu þeir með eitthvað yfirnáttúrlegt, sem enginn gat skilið í. til þess að sanna með sögu sína. Og þá trúðu menn líka öllu, sem þeim var boðið. Þess vegna eru kraftaverkin talin í biblíunni, þau eru þar sett til þess að sanna kenningar ritningarinnar, þó undarlegt sé. Má vel vera að postularnir hafi trúað þeim, því að þeir voru ófróðir menn og þektu sáralítið lögmál náttúrunnar, en það auðvitað sannar ekki hina minstu ögn gildi þeirra. Þessi kraftaverk hafa verið hjá öllum trúflokkum, og þegar lengra dregur austur í Asíu. þá verða kraftaverkin einlægt stórkostlegri og óhemjulegri.

Vér ætlum nú að láta yður fá sýnishorn af kraftaverkum þeim, sem Kristur átti að hafa unnið í bernsku sinni. Nýjatestamentið veit ekkert um hann þar til er hann kom 12 ára í musterið, en það er til guðspjall eitt æfagamalt, frá tíma þeim sem hin guðspjöllin voru rituð, er segir frá bernsku Jesú Kı ists og kallast það: barndómsguðspjall. Telur séra Helgi Hálfdánarson það í kyrkjusögu sinni hið 5. meðal ýkjurita (bls. 179), og nefnir það "guðspjall um barndóm frelsarans. Það er frumritað á Sýrlensku.

Í því er sagt frá bernsku Krists, hvernig hann ólst upp, hvernig hann lék sér, og frá öllum kraftaverkum þeim sem hann gerði í bernsku sinni. Klerkar hafa ekki haft hátt um það guðspjall og ekki viljað taka það inn í hinar heígu bækur Nýjatestamentisins. En fyrir hvað? Líklega af því að þeir hafa haldið að það myndi rýra gildi hinna bókanna. Sögurnar í því eru barnalegar og sakleysislegar og vér getum ekki séð hvers vegna þetta guðspjall má ekki skipa sama sess og hin önnur. Það virðist hafa hinn sama sögulega sannleika við að styðjast og hin. Þau eru öll skrifuð meira en mannsaldri á eftir dauða Krists. Það sem menn hafa talið þeim til sannleiksgildis, er einkum kraftaverkin, og þau eru eins í þessu sem hinum.

Kraftvaerkin í barndómsguðspjallinu eru einkum þessi: Þegar María mey færði son sinn Jesúm fyrst í musterið, þá átti Símon gamli að sjá þar ljósstólpa mikinn og gladdist hann stórlega við. Annað kraftaverk skeði og þegar þau María og Jósep fóru með son sinn til Egyftalands. Þá var þar skurðgoð eitt, og er þau hjónin nálguðust með barnið, féll skurðgoðið niður af stalli sínum og brotnaði í sundur. Enn er hið þriðja. Þegar þau María og Jósep voru á ferðinni, varð fyrir þeim ræningjaflokkur, og er þau nálguðust, þóttust ræningjrrnir heyra ys mikinn og hávaða, eins og kæmi einhver voldugur konungur með riddaraliði, og heyrðust þeim lúðrar gjalla. Urðu þeir svo hræddir, að þeir yfirgáfu herfang sitt og lögðu á flótta. — Af kraftaverkum þeim er sýna speki Krists, hefir barndómsguðsdjallið nokkur. Á einum stað er sagt frá því, er Kristur í musterinu, 12 ára gamall, skýrði fyrir kennifeðrunum lögmálið, og lýsti fyrír þeim göngu himinhnattanna. Taldi hann upp æðar og taugar allar í líkamanum, sagði hvernig sálin verkaði á líkamann og margt annað sem enginn maður hafði áður vitað. Þá átti hann að segja móður sinni meðan hann lág í vöggu, að hann myndi krossfestur verða að 30 árum liðnum. Enn segir frá því er hann var á skóla sendur. og hafði þá þegar upp fyrir kennara sínum allar lexíurnar, svo að hann varð forviða og sagði: "Það er ætlan mín

að barn þetta hafi fæðst fyrir daga Nóa," og snýr sér svo að Jósep og segir, "Þú hefir fært mér svein til kenslu sem hefir meiri þekkingu en nokkur kennari."

Þá eru kraftaverk þau, er hann sýnir vald sitt yfir náttúrunni, og er margt af þeim í þessu barndómsguðspjalli. Þar er meðal annars sagt, að þegar María móðir Jesú ætlaði einu sinni að þvo klæði hans, þá lét hann vatnslind koma þar sem engin var áður. Af svitadropum hans, er féllu á jörðu, óx upp balsamviður, og náði svo tré það vexti og viðgangi í landinu. Eitt skifti féll drengur einn lítill i ofn logandi. en með því að hann var í fötum, er gerð voru af reifum Krists, þá sakaði eldurinn hann ekki. Kristur gerði og myndir úr leir af dýrum og fuglum, sem aðrir drengir. En svo gaf hann þeim líf svo að dýrin gengu en fuglarnir flugu. Eitt sinn var hann hjá litara nekkrum,og kastaði þá öllum klæðunum á eldinn í litunarofninum, en dróg þau svo út aftur og var hvort klæði með þeim lit sem litarinn vildi á kjósa. Við smíðarnar hjálpaði hann föður sínum, og væri annaðhvort of stutt eða of langt hjá honum, það er hann var að smíða, þá lét Kristur það lengjast eða styttast, eftir því sem við átti. Eitt skifti var Kristur að leika sér við börn önnur, en móðir þeirra bannaði þeim að leika við Jesúm og faldi þau í ofni einum og sagði honum, að í ofninum væri ekki annað en kiðlingar. Þá skipar Kristur kiðlingunum að koma út, og jafnskjótt hlupu þar út kiðlingar og voru börnin þannig breytt í kiðlinga, en svo gerði hann þau aftur að börnum eftir beiðni móðurinnar, sem grátbændi hann að gjöra það. Einu sinni beit höggormur barn eitt, en Kristur skipaði höggorminum að koma og sjúga eitrið úr sárinu og gerði höggormurinn það. Einu sinni var hann að sækja vatn í krukku fyrir móður sína og brotnaði krukkan hjá honum, en þá tekur hann vatnið upp í kirtil sinn og ber það þannig heim.

Þá segir barndóms guðspjall þetta frá ótal lækningum Krists, er hin guðspjöllin geta ekki um. Einu sinni læknaði Kristur höggormsbit með því að anda á það. Það er sagt, að Júdas hafi leikið barnleikum við Krist, en sagan lætur djöfulinn vera í Júdas þegar á barnsaldri og sýnir það sig í því, að Júdas er mjög gefinn fyrir að bíta alla sem hann nær til. Einu sinui var komið með Júdas til Krists og hafa þeir þá verið ungir mjög. Var Júdas settur við hlið Krists og tók þá, sem hann var vanur, að reyna að bíta hann. En Kristur sló hægri hendi hendi sinni á síðu Júdasar og læknaðist þá Júdas á augabragði, en Satan fór út af drengnum og hljóp burtu sem óður hundur væri.

Þá eru enn kraftaverk, sem Kristi eru eignuð, bæði í nýja testa-

mentinu og guðspjalli þessu, sem frá siðferðisleg sjónarmiði er vafa samt hvort að eru réttmæt, svo sem þá er hann bauð fíkjutrénu að visna eða djöflunum að fara í svínin. Af þesskonar kraftaverkum er heilmikið í þessu barndóms guðspjalli. Eitt var það er drengur einn datt af hestbaki og dó en Kristur var sakaður um dauða hans. En þá skipar hann hinum dauða að tala og bera af sér áburð þann. Þá eru og í barndómsguðspjallinu ýmsar sögur um það er Kristur á unga aldri sló menn með blindu eða gjörði þá blinda. Eins átti hann að deyða bæði börn og fullorðna menn, er honum þótti við. Einu sinni var hann sendur á skóla og lét þá illa, svo að kennarinn ætlaði að slá hann, en þá lét Kristur hönd hans visna og dó hann af því kennarinn. Í annað sinn kom drengur hlaupandi móti honum og rakst á hann svo að Kristur féll. Við þessu reiddist hann og sagði: "Eins og þú hefir felt mig svo skaltu og sjálfur falla og aldrei rísa á fætur." Og féll þá drengurinn til jarðar og stóð aldrei upp síðan. Þetta og því umlíkt var svo alment, að guðspjallið lætur Jósep segja við Maríu: Upp frá þess skulum við ekki láta hann fara út úr húsinu, því að allir deyja, sem honum líkar illa við.

Þegar ver nú förum að hugsa út í þessar frásögur, þá verður oss fyrst fyrir að spyrja sjálfa oss: "Er þetta nú satt? Eru allar þessar sögur, sem hér eru upp taldar um Jesúm, sannar?" Og ég held að fáum muni blandast hugur um það, að þær ern það ekki, þær eru tilbúningur. En hvers vegna hefir kirkjan ekki tekið þetta guðspjall gilt sem hin önnur? Augsýnilega af því að kirkjan hefir fundið það, þó að trúin blindaði menn þá að miklu leyti, að sögurnar voru þannig lagaðar, að þær eyðilögðu og að engu gjörðu virðinguna fyrir Kristi. Þær hinar seinustu sem ég sagði frá, sýndu þar að auki Krist grimman og heiftarfullan, er hann deyðir menn fyrir litlar og engar sakir; hann sem þeir sögðu að kominn væri til þess að frelsa, hann er hér látinn deyða að gamni sínu eða í hefndarskyni. Kirkjan hefir því aldrei viðurkent þetta guðspjall. En hvernig stendur þá á því? Það er til orðið á líkan hátt og hin. Löngu eftir dauða Krists, fara menn að safna sögum um hann, sem gengið hafa manna í millum. Trúin á hann sem mikinn og guðdómlegan herir þá verið farin að útbreiðast, og þessir fjarska fáfróðu áhangendur trúar þeirrar hafa farið að týna til allar þær sögur, sem á einn eður annan hátt sýndu, að hann hefði guðdómlegt vald. En nú var ekkert- sem sýndi eins vel guðdómlegt vald, eins og sögur þær, sem létu hann nafa vald yfir lífi og dauða, létu hann geta lífgað og deytt eftir vild sinni; og sökum þess og eins hins, að þeir þessir sögusafnendur, hafa ekki staðið á neitt háu stigi í siðferðis-

legu tilliti, þá hefðu þeir ekki verið svo vandir að sögum þeim, sem þeir hafa tekið inn í guðspjallið; aðalhugsanin hjá þeim var að sýna það, að Kristur væri yfirnáttúrlegur, að hann væri guð.

En hvað getum vér nú lært af þessu? Vér sjáum hér samtýning af æfiatriðum úr lífi eins hins mesta ágætismanns, sem jörðin hefir borið, og þessi samtýningur hefir augsýnilega ekkert við að styðjast; það eru sögur, sem eru týndar saman hér og hvar og að líkindum allar tilbúnar og þó var þetta einu sinni eitt af guðspjöllum þeim, sem menn trúðu. Það fara að ljúkast upp á oss augun og vér förum að renna grun í hvernig hin guðspjöllin hafi til orðið; þau eru samsafn af sögum, sem gengið hafa um þennan mikla og ágæta kennara, læknir og trúarhöfund; þær eru að mörgu leyti góðar og ágætar þessar sögur, en vér megum vara oss á því að gefa þeim ekki guðdómlegt gildi. Hér sjáum vér kraftaverk, ótal kraftaverk, en þó geta þau ekki sannfært oss um, að guðspjallið sé guðdómlegt. En getur þá nokkurt kraftaverk sannað nokkurn skapaðan hlut? Vér höfum ótal kraftaverkasögur um aðra trúarhöfunda á austurlöndum og erum þó ekki trúaðir á þau. Kraftaverk geta ekki sannað neitt af þeirri einföldu ástæðu, að það er ómögulegt að sanna nokkurt kraftaverk. Þau eru hugarsmíði vankunnandi manna. Það eina stóra kraftaverk sem til er, það er sköpun heimsins og viðhald hans eftir föstum lögum, sem aldrei að eilífu breytast, og þetta kraftaverk, sem vér dags daglega horfum á, það útilykur og gjörir ómöguleg öll önnur kraftaverk, því að þau verða þá brot á móti lögum alheimsins, brot á móti lögum guðs.

Það er og annað, sem vér verðum að aðgæta, en það er það, að rýra ekki tign og göfgi annars eins ágætismanns eins og Krists með því, að trúa því að hann færi að gjöra kraftaverk. Það eru kenningar Krists, það er líferni hans, sem gjörir hann að heimsins stæðstu og bestu persónu. Hann þarf ekki að beita brögðum til þess, hann þarf ekki að brúka töfra til þess, heldur að benda mönnum á sannleikann að sýna mönnum dygðina að minna menn á skylduna, þar kemur fram það sem vér getum kallað guðdómlegt hjá honum, þar sjáum vér það, sem vér eigum að lifa eftir.

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : Magnús J. Skaptason.
686 Alexander Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.